# Boðsrit

til að hlýða á

# Þá opinberu yfirheyrslu

í

## Reykjavíkur Skóla

þann 18. Júni **1847.**

---

Islenzkir málshættir safnaðir, útvaldir og í stafrofsröð færðir

af

**Dr. H. Scheving.**

Landsbókasafn

---

**Reykjavík.**

Prentað á kostnað Reykjavíkur Skóla,

1847.

# Viðbætir
## við íslenzka málshætti.

### A.

A (af, P. rángt) fátækra metnaði fleinir djøfull dausinn.
á skammri stund skipast vedur í lopti (ekki er leingi að skiptast, v. s. frv. P.).
að klaustra er ekki að flýta sjer.
að leyna fundi er að líkjast þjóf.
að øllu er (þykir) nokkuð, (sbr. Bodsrit: að flestu má eitthvað finna).
aðvørun geldur (gyldir, P. rángt) ójafna þokk.
af annara er hver ørlátastur (margur er ør á annara v. s. frv. P.)
af eingum heimtast meira, enn hann getur.
af er það, sem áður var (það er af, v. s. frv. P.).
af eru mestu vetrar þorkur, þá spóinn lángvellar.
af óráðsmanna sje fyllist mángarans pýngja.
af søgu segjanda verður heyrandi fróðari.
af verður að ráða nokkuð úr hverju vandræði, Ljósvetn. s. bls. 39.
áfeingur drykkur er óminnis øl.
afl er bezt í hverjum leik (afl er í leikum bezt, P.).
ágjarn er í ætt við þjóf.

ágjarnan vantar eins feingið, sem ófeingið.
ágirnd etur sig aldrei metta.
aldraðir til ráða, úngir til framkvæmda.
aldrei er elli einfara.
aldrei er gagn að ósóma.
aldrei er kvennastjórn affaragóð.
aldrei er ofmikið af góðu, Stellur. 8, bls. 133.
aldrei verður ágirnd södd.
alla (alla ber að sama brunni) að sama brunni ber.
alla brestur eitthvað (= einginn er algjörður, Boðsr. og: allir hafa einhvern brest, P.).
allir eru börn hjá Boga.
allir hafa börnin verið (allir hafa úngir verið, P.).
alls er vant þeim ekkert á.
allt er betra, en aungull ber (berir aunglar, Boðsr.).
allt hermir apinn eptir.
allt tekur enda um síðir.
allt verður gæfumanninum að láni.
allt verður til fjárins unnið, Grettirsſ. k. 61, bls. 133. (Flest verður til, v. s. frv. P.).
allt verður þrisvar forðum, Sturl. 9 þ. 34. k.
allt vinnst fyrir gjaldið = allt fæst fyrir peninginn, Boðsr.
allt vinnst upp og einnig molarnir.
allt vinnst, þá að er verið.
aptur fýsir elskuga sins augnagamans; sbr. Fjölsvinnsmál 5ta er.: augnagamans fýsir aptur frián (svo les jeg fyrir: fán), hvars hann getur svast að sjá.
aptur sækir fat í fornar brukkur.
árla á fætur bú bætir.
ástin dregur sig ekki í hlje.
auðna stýður öflgan hug.
auður og áhugi skiljast aldrei að.
auðvelt er að lofa, örðugt að efna.
auðvelt er ósæddum að basa.
auðvelt þykir verk í annars hendi.

aumur er sá, sem einginn þnjóðar i.
aumur jafnan vosi venst (venst vesæll vosi, P.).
aungulsár fiskur forðast alla beitu, kvæði S. Peturssonar blf. 219.

## B.

Bakmálugur býr til vønd á sjálfs sins bak.
barnið vex en brókin ekki
ber vitni, þá báðir ljúga (ber baggi (beggja) vitni, þá (ef) ljúga skal, P.).
betra á sá sem berst enn hinn sem óþrifst.
betra er að þjer sje, enn þjer hafi verið, Skinnb. A. M. 123, 4 bl. (betra er þjer sje, enn þ. v., P.).
betra er að vægjast til góðs, enn bægjast til ills, Sturl. 4ða bd. blf. 59. (sbr. P.)
betra er brjóstvit, enn bókvit.
betra er góð samviska, enn krókótt orð, Skb. A. M. 128, 4. bl. blf. 187.
betra er gott fylgi, enn frænda stoð.
betra er litið ljós, enn ofbirta.
betra er ófeingið, enn illa geymt.
betra er þykkt øl enn þunnt skol (øðruvisi Pr. 59).
betri er agi, enn ofmikið sjálfræði.
betri er bið, enn bráðræði (betri er biðlund beðin, enn bráðlega ráðin, P.).
betri er bið, enn bráður feingur.
betri er biðandi byr, enn bráður andróður, Brynjúlfur byskup i athugagr. við Saxo.
betri er bjór enn botninn þur.
betri er bót, enn gloppa.
betri er ein haustbreiðsla, enn tvær vorbreiðslur.
betri er frægð, enn fje.
betri er grannkona góð, enn systir á fjarlægri lóð.
betri er hauststkurður, enn vorskurður, sjá: bollari er.
betri er mjór (smár; t. a. m. fiskur) feinginn, enn stór einginn.

betri er raun góð, enn sterk lofun (enn raup mikið, P.), æfintýri af Valtara hertoga.
betri er seyrulaus fátækt, enn illa fenginn auður.
betri er treiningur enn tradgjöf (enn stór forsneiðingur).
bezt er að byrgja munn, þá betra er þagað, enn mælt.
bezt er að byggja af því, sem ekki kann að fást.
bezt er að vera byrgur vel,
bezt (hægt Pr. höllt Bodsrit) er heilum vagni heim að aka.
bezt er heimskum heima (heima er h. b., P.)
bezt er hóf að hirða, þá hamingjan er blíð.
bezt er hver eigi það hann á.
bezt er til hófs að búa, Ásmundar s. kappab. í F. N. S. k. 1, bls. 465.
bezt er um heilt að binda (um heilt er b. a. b., P.)
betur vinnst opt blíðum áminningum, en lángri hirting.
bíða má sjer til batnaðar.
bilar slest, sem brákað er.
bjúgur kálfur er betri enn ekki.
blað skilur bakka og egg, Fjølnir, 8da ár, bls. 57.
blíður er bakmáll í eyra (aðrir: bakmáll lætur blítt í eyra), Gillini-sálmur sjera Þorgeirs 2að v.
blindum (þeim blinda, P.) verður ei sjón að synd.
blindur er feigs vegur.
bóndinn stýður bóginn undir ríkum.
bornir frændur skulu bindast bræði, Fms. 5ta bd. bls. 15 í visu; sbr. full er frænda rógur.
bótavant er gamalt brot.
bráð og laung er vesæls manns þørfin.
bráðlát er barnslund (= bráð er barns þorfin, og: brátt er barna skap, P.)
bráður er bøgusmiður (søgusmiður, P.).
bráður er þurs að brydda á reiði.
brák (það er brák Bodsrit) er að bera í bakkafullan lækinn.
bregður hverjum (flestum, P.) á banadægri (bregst al.)
brixl eru blossa efni.

brixl eru vondra verja.
brotna skal bodi á skeri.
brunar (bryddir) fyrir Barda (brimar fyrir Barda, Bodsrit).
brunnur sá er óbyrgur sem bera þarf vatn í.
búinn er gálginn, en bófana vantar.
brynja gefur ei feigum fjør.
bygt er brúdir vid (á, ad) fyrsta bibli, en blidkast sídar, (víknar sídan), Brynjúlfur byskup í athugagr. vid Saxo.
bætir sá ei brók annars, sem ber er um rassinn sjálfur (sá kann ekki ad bæta brók, o. s. frv. Bodsrit.)

## D.

Deila bjarfrádir, þó daufir sjeu bádir.
djarst má fyrir dádaverk svara.
digur rass þarf vida brók.
dirfist madur af meira, Parcevals s.
dramb er falli næst.
dregid er þad sem drýpur (þ. e. dettur nidur, er sagt í spilum.)
dreingur er sá dreingsverk vinnur.
dreymir hvern til daglátanna.
drjúg eru morgunverkin.
dunar lítid þó ein dúfa dansi.
dygd er fridleiks dýrsta gersi.
dýrmætt er (dýrt er lif) lisid, þá daudinn kallar.
dælt þykir hrøfnunum vid hann lodinn (þ. e. saudinn); dælt gjorir hrafninn sjer vid lodinn, P.

## E.

Ef allir væru jafnir, þá væri einginn meistur.
ef nægtin sparar ekki, er einginn neydarfordi.
efnin þurfa til alls.
ei má vid øllu sjá, Grettis s. 54. k. bls. 128.
ei veit hvers hugar hverjum ljær, Sneglu-Halla þ. 7. k.
eigi er hver slíkur, sem hann er sjedur, Þáttur Hemings

Asláksſonar 5. k. adrir: ekki er hver allur þar ſem hann er ſiedur.
eigi er hægt undan helju ad ſtýra, Snjársljód.
eigi má gjøra (ekki er hægt ad gjøra, P.) tvo mága ad (úr, P.) einni dóttur, Hrólfs ſ. Gautrekſſonar 1. k. blſ. 58. i F. N. ſ. 3. bd.
eigi má ſkopum renna, Hardar ſ. og Hólmv. 35. k. (Ei má fyrir þad renna, ſem manni er ſkapad, P.).
eigi veit hverju heilli hvergi kemur (hverja heill hver hefur), Gautreks ſ. i F. N. ſ. 3. bd. blſ. 4.
eigingjarn hlær ef annan ſlær.
ein gløp ſækir hvern jarl, Fmſ. 5ta bd. blſ. 200 i visu.
einhvernveginn ſlúnginn ſleppur.
einn er ørkvisi ættar hverrar (ótti er ørkvisi, P. rángt).
einslitir fuglar fljúga ſaman (ſamlikir fuglar fljúga ſier i hóp, P.).
einum ad þóknaſt ekki er gott, øllum hálfu verra
eitt er ad rádgjøra, annad ad framkvæma.
eitt er ad hljóta, annad ad njóta.
eitt mein ſækir hvern jarl, Fms. 4da bd. blſ. 195 i visu.
eitt ſverd dregur annad úr ſkeidum.
eitthvad leggſt þeim til, ſem ekki er feigur.
eitthvad verdur óþarſinn ad vinna.
ekkert ad gjøra er ills byrjun.
ekkert ad gjøra kennir illt ad vinna (ſá ſem ekkert gjørir, v. ſ. frv. P.).
ekkert er ſvo vel gjort, ad ekki verdi ad þvi fundid.
ekkert er verra, en vara heimſkan.
ekkert er þad ról, ad eingi þurfi tól, Rímur Ingvars pretts og Parva Magnúsar í Øgri i manſaung.
ekkert feitir ſvo heſtinn, ſem húsbóndans auga.
ekkert óhóf kann leingi ad ſtandaſt = ſkomm er óhófs æfi, P.).
ekki á ſaman ſvángur magi og ſkrautlegur kyrtill.
ekki á ſaman tvofaldur og einfaldur (þad á ekki ſaman ſlægur og einfaldur, Bodsrit).

ekki ber ætíd bezti málsstofn sigurinn úr bítum.
ekki blæs ætíd eins.
ekki dugir þeim hjarta, sem huglaus er, Krákumál 22 er.
ekki er afnáms sje í aumra slíkum.
ekki er allar konur eins ad kyssa (ollum konum eins ad heilsa, P).
ekki er allt feingid med audnum.
ekki er falsvinur óvin betri.
ekki er gaman ad glettast vid hrosshausinn.
ekki er gaman (blæandi) ad óskøpunum.
ekki er hann sporbur margorbur, og þó gledur hann bornin.
ekki er hirdanda hey: ef hvassara er, enn laufvindar.
ekki er huguriun vid áfánga bundinn.
ekki er hægt ad hvinnska har sem heimabóndinn er þjófur, D.
ekki er kyn þó kvarti svángur.
ekki er lánid allra.
ekki er leidum ad líkjast, hvar loslegir ríkja (seinna hlutanum sleppir P).
ekki er mædu markadur bás.
ekki er námsvaut (námsamt, P. rángt) nakinn ad særa.
ekki er óhófid aurasælt.
ekki er ólánid leingi til ad vilja.
ekki er sama verkid eins virt fyrir ollum.
ekki er skollinn (sjandinn, P) idjulaus, Stellur. 6. mansaung 19. er.
ekki er smámennid leingi ad eta sig upp.
ekki er svo aumt kvikindi, ad ekki sje betra ad hafa þad med sjer, enn móti.
ekki er vakurt nema vel sje ridid (adrir: þó ridid sje, nema ridid sje, P).
ekki er vandskirt fátæks manns barn (adrir: ekki eru vandskird fátækra manna bornin).
ekki er vert ad leita þess utanhúss, sem innanhúss er ad fá.
ekki er vert ad þakka, ádur enn madur smakkar; þakkadu ei fyr, enn þú hefur þegid, P).

ekki er vitid meira, enn gud gaf, þó tók hrafninn þad hálft af (seinna hlutanum sleppir P).
ekki er þad mjer gott þó ödrum skeni, sagdi eigingjarn.
ekki er öllu skrokvad, sem skrafad er.
ekki er öllum hólid hent, Ritlingarekstur.
ekki er öllum svip eins ad trúa.
ekki eru betri sjálfs (eigin) klækir, enn annara.
ekki eru einkis virdandi aumra ráđ.
ekki eru ætíd jól.
ekki fagna djöflar dansi, nema barki med.
ekki fer alltíd (sjaldan fer, P.) betur þá breytt er.
ekki fer hinn vesæli allra unadsemda á mis.
ekki gefur á allt ad kjósa.
ekki getur einn djöfull verid ljóss eingill til lángframa.
ekki grær um opt hrærdan stein.
ekki grætur barnid, ef þad fær allan sinn vilja.
ekki hafa allir hjartad á vörunum.
ekki hentar sult ad sjóda, þá mörgum skal bjóda (þá margan skal fæda, P).
ekki (sjaldan, P.) hleđst svo allt á einn, ad ekki fylgi löstur (brestur, P.) neinn.
ekki hæfir blaudum manni vín ad drekka, Hervarar s. í 4. bl. broti, bls. 84.
ekki hæfir hræddum ad halda á merki.
ekki kemba allir hærurnar (ekki eiga allir hærurnar ad kemba).
ekki kemur dufa úr hrafns eggi.
ekki leida allar sóttir til bana.
ekki má allt brjóta, sem brákad (bogid) er.
ekki má fresta því, sem fram á ad fara.
ekki má sá klokkva, sem fús er farar; sbr. Skírnisför 13. er.
ekki reidist stedji stórhöggunum.
ekki rjúka allar seydur í senn.
ekki saka þann óbænir, sem saklaus er.
ekki skýlir skugginn þá skýnid er bjart, D.
ekki smidast heststónagli í einu höggi, Stellur.

ekki tjáir ad gráta ordinn skada, sv. síera Steffáns í Vallanesi bls. 123.
ekki veit fyr enn svarad er, Þorfinns s. Karlsefnis í „Grønl. Hist. Mindesm." 2. bd. bls. 392.
ekki verdur (bædi) átt og útborid (af sied, P).
ekki verdur í allt sied.
ekki verdur talad ord aptur tekid (= tolud ord verda ei aptur tekin, P).
ekki verdur þeim trúad, sem eingu getur leynt.
ekki verdur ullsjódur ad silki, þó gull hann geymi.
ekki verdur ollum í ondvegi skipad.
ekki vinnst allt med orku, er þó vinnst med lagi.
ekki vægir úlfur saudum, Grobb. r. 1ta mans. (= ekki vægir vargurinn, Bodsr.).
ekki væntir gæfan kvolds, ef visad var frá ad morgni.
ekki þarf hund med osti (oka) í ad slá ef svipan er nærri.
ekki þykir skassinu skomm ad sjer; sjá: aldrei þykir, o. s. frv.
eldur er vidar fura (þ. e. eydandi), Lýflings þáttur.
eltur undan sækir, sv. síera Steffáns í Vallan. bls. 60.
eingan brestur þad hann á.
eingan drepa digur þót (= eingan slá stóryrdin í hel, Bodsr.
eingi ber allt mein frá eldi.
eingi brunnur er svo djúpur ad ekki verdi uppausinn (aldrei Pr. 27).
eingi deilir leingi einn.
eingi er allt í senn úngur og gamall, Hirdskrá 24da kap. (Fár er í senn forn og úngur, P).
eingi er at feigri þó framarla standi í orustu; sbr. Krákumál 22. er.
eingi er at vitaverdari þó varlega fari.
eingi er svo argur ad ekki fylgi nokkud gott.
eingi er svo argur ad ekki megi á hann ljúga.
eingi er svo argur ad ekki megi af honum læra.
eingi er svo ita hreinn ad ekki fylgi sori neinn.
eingi sædist med formennskunni.

eingi getur bodid betra, enn sjálfur hefur.
eingi hefur á þøgninni (= þøgn er ekki á þing færd, Bodsr.)
eingi hefur betra ad bjóda, enn til hefur, Grettis s. 96. k. bls. 161.
eingi hefur sin eyru á allra (annars, P) høfdi.
eingi hrafn hoggur annars augu út.
eingi hvitnar þó annan kámi.
eingi kemst yfir ásett mid.
eingi kemst leingra enn gud vill.
eingi kennir þad ødrum, er ei kann sjálfur.
eingi lifir ordalaust.
eingi lætur sér annars viti ad varnadi, Þáttur Þorsteins Stángarh.
eingi má feigd sinni forda; sbr. Snjársljód.
eingi (mangi) má vid skøpum vinna (gjøra, P), Volsúnga s. i. F. N. s. 1ta bd. 36 k. bls. 216.
eingi ragur fiflar (aldrei fiflar ragur, P) frida konu.
eingi sefur sier sigurinn i hendur.
eingi tekur af sjálfum sier.
eingi tekur þar stil, sem ekki eru til.
eingi veit á hverri stundu mælir (ekki veit á hv. st m., P).
eingi veit (aldrei má vita, P) ad hverju barni gagn verdur. ekki veit, v. s. frv. Bodsrit).
eingi veit hvad undir annars stakki býr.
eingi veit hvad verda kann; sjá: margur veit hvad vill, en ekki hvad verda kann, P).
eingi veit hvar sæls manns efni situr.
eingi veit ófreistad.
eingi veit sina æfina fyr enn øll er.
eingi verdur af eingu frægur (ágætur af eingu, P).
eingi verdur gripinn þar, hann ekki kom.
eingi verdur hvitari þó hann adra sverti.
eingum er bót i annars bøli (happ i annars falli, P).
eingum er gagn (eingi hefur gagn, P) ad þeim augunum, sem hann sjer ekki med.

eingum er leyft ad sverja fyrir huga sinn.
eingum nægist ekkert.
eingum (fáum, P) þykir sitt ofmikid.
eptir budlúngs (kongúngs, P) sid, breytir allt hans lid.
eptir útlendri þjód apar gikkurinn.
eptir vinnunni fara verkalaunin (eru launin, **Bodsrit.**)
erfingjans grátur er innra hlátur.
eydsla hefur ágirni sjer til addrátta.

## F.

Fáir eru vinir hins volada (fáa á voladur vini, P)
fáir láta sjer lán sitt nægja.
fánýtt er falsarans lof.
fár geingur (þ. e. kemst) of skop norna, **Krákumál** 24. er.
fár hyggur (fáir hyggja, P) þegjanda þorf, **Hávamál.**
fátt er bótalaust bøl (= fátt er þad, sem fæst eingi bót vid, P).
fátt er svo ónýtt, ad til einkis sje nýtt.
fátæktin er løtum fylgisom.
fjegjøfull eydir, en fjedrøgull seidir.
feitur uxi hefur fulla søk, gledileikur **S. Pjeturssonar**; sjá: feitur gøltur fær vel søk, P).
fleira má bíta, enn feita steik.
fleira rædur sigri, en sveinafjøld.
fleira skin í augum, enn skartid eitt (fleira þarf til skikkanlegheitanna, enn, o. s. frv. P).
flest er hey í hardindum.
flest er (verdur P.) til fjárins unnid.
flest er úngum ónnmid.
flest of fer um sidir flatt.
flest vinnur svängur madur til sadnings..
flestar eru þrúdar konur fámálugar, **Grettis s.** 92 k. í visu.
flestir girnast frid í stridinu, **Skipreika sálmur** sjera **Þorgeirs Andresarsonar** 50. er.
flestum er titt ad fylgja sinum brætti.

fljótt læknast lastyrdi login; samanb: seint læknast, Þ).
forvitinn vill allt vita nema sína eigin vömm.
framkæmd fylgir frami og gæfa.
fridleikur veitir augunum gladning, en pýngjunni litla sadning; sbr. fridleikurinn kann ad fylla augum, enn ekki púngurinn, Þ).
fridur er fjádur svanni.
fridurinn tedur tún og eingi.
fræddur er hver fregnar, Parcevals s.
fúll er frændarógur, Fms. 5. bd. bls. 15; sbr. bornir frændur skulu bindast brædi.
fylgist ad furtur og hnakki.
fyrnist sorg þá frá lidur.
fyr á gömlum uranum ad hæsa, enn kálfinum, Fms. 6ta bd. bls. 23. (fyr skal bæsa kálfinum, enn, v. s. frv. Þ).
fyrra verkid vinnur hid seinna.
fyrri er næring, enn fullur magi.
fyrri er skuld fjegjöfum.
fyrst réttsýnn, svo fjegjöfull.
fyrst skal frömum bera, þó má bord á vera (skullt skal frómum, v. s. frv., Þ).
fögur er kápa „frómleikans", Gylliniljód síera Þorgeirs, 12. er.

## G.

Gamlir búmenn bila síst.
gefid og aptur tekid er stólid
geingin er gýgur (þ. e. trollkona = áma; þadan er ámusótt = heimakoma) úr fæti, en hardsperra aptur komin.
geltinn hundur glepsar síst.
gerdi er bezt ad gjöra, Skinnb. A. M. í 4ra bl. br. 188.
gjordu skráknum (skálkinum) bezt, hann launar þér verst.
glada hjartad gódu spáir.
glód er glöggskigna (?); adrir: glöggskignastur (glædur er glöggskignastur (?), Lýflings þáttur.

glæpur er gestkoma ef gjørist i nokkud, Atlamál en grænlenzku 32. er. Rasks útg.
gløggur reikningur gjørir góda vináttu (gódur reikningsskapur gjørir gódan kompánaskap, P).
góð íþrótt er gulli betri.
góð løg aptra mørgum illt ad gjora.
gódan varning vantar sjaldan kaupanda.
gott á fiskurinn, þann má drekka þegar hann vill, sagdi drykkjurúturinn.
gott ad gjora er aldrei ofseint.
gott barn kvedur góda vísu; sjá P. bls. 123, 2 línu.
gott dæmi er á vid góda rædu.
gott er ad eiga gódan ad.
gott er ad elda gomlum vid.
gott er ad hafa barn til blóra (gott er barn til blóra, P).
gott er ad vera vid góda sáttur (gott er vid fróma ad forlíkast, P).
gott er allt vid góda ad skipta.
gott er geingnu ad hrósa; sbr. Snjársljód.
gott er gódu ad mæta, D.
gott er þad jafnan ad gefa betri raun, enn margur ætlar, Grettis. s. 96 k. bls. 260.
gott er þeim, sem ged hefur glatt; sbr. kátt er þeim ei kennir sorg.
gott kemur aldin af gódum vidi, Parcevals s.
gott verk gefur góda raun, Ritlíngarekstur.
gud krefur ei meira, enn hann gefur.
gud rædur sókn og sigri, Fms. 7, 155.
gudseingill innanhúss, hádjøfull heima.
gulli betra er gofugt nafn, Ritlíngarekstur.
gæfa fylgir gódri nennu.

## H.

Hagnýtni drýgir litla muni.
hálft ef hundi býdur, heilt ef manni býdur.
hált er heims glisid.

halur er heima hver, Háfamál 37. er.
hamingjan ferdast heiman, og bittir þann hún vill.
hart er hrafns brjóstid.
hátt hlakka ernir yfir hræfeingi (hræfningi, P).
hátt hugsar heimskan úr hófi.
hefnd dregur illa sættir saman.
hefnd egnir til hefnda.
heimskt er heima alid barn; sjá: heimskur er heima alinn sonur, P).
heimskur hurdu skéllir.
heimskur ljær spóninn, en lepur sjálfur.
heimskur lætur á glisi ginnast.
hendir seinn hvatan, Odysseifsdrápa 8da bók.
hjálpi mjer gud, ekki þursti jeg gat (sídara hlutanum sleppir P).
hóffemi er heilsu bezt.
hollari (betri) er hauskurdur, en horskurdur.
hollari eru (hverjum) sannindi beisk, en sætar lygar.
hollt (gott, Bodsr.) er heilum vagni heim ad aka, Brynjúlfur byskup í athugagr. vid Saxo.
horsid er takmarkid, þá hófsins missir.
horsir niskur sis í slest.
hugvitid er hverju láni betra.
hundstúngan grædir, en kattartúngan særir.
húsbóndans auga vinnur hjúanna hálfa verk.
hvad skal blindum bók?
hvad skal heim ad búa, sem oll hjú hata?
hvad stodar full kista ef kolski geymir lyklanna?
hvar skal óbodinn sitja?
hver annan vill ofan rida fellur tídum sjálfur úr sødli.
hver er audgari, enn hann hykist, S. Ans Bogsveigis í F. N. s. 2. bd. bls. 359. (Margur er ríkari enn hann þykist, P).
hver er svo kvaddur, sem hann er klæddur.
hver er vid sína heimskuna bundinn (sinn er vid hverja heimskuna bundinn, P).

hver fær sig reyndan, sem mikid hefur vid heimiun ad skipta (seinni hlutanum sleppir P).

hver hefur eyk, sem af ødrum dregur, Grettis s. 33. kap. bls. 102, en í Harbards ljódum 21ta er. stendur: þad hefur eik, er af annari skefur.

hver hefur sin ád binda sár.

hver hefur sina byrdi ad bera.

hver hefur sitt ad líta (lofa) lán (hver hefur sitt lán ad líta (adrir: lýta).

hver madur lifir ad munum sínum, Oddrúnar grátur 32. er.

hver kvedur sínuar þurftar, Ekkjuríma (kvedur hver, o. s. frv., Bodsrit.)

hver metur sig mest, þá litlu er ad skipta.

hver sem glettist vid gikkinn, hann fær af honum hnikkinn.

hver sem hygginn vill vera, hlýtur fyrst okid ad bera.

hver veggur vinnur upp sína mold.

hver veit hverju sleppir, en ekki hvad hann hreppir (hef eg mikid, hvad eg hreppi veit eg ei, P.)

hver verdur sínum forløgum ad fylgja; sbr. søgu Vemundar Køgurs bls. 248.

hver vill halda sínu.

hver vill sitt fyllist.

hver yfirsjón hefur sinn hala.

hver ætlar annan eptir sier.

hverju beini verdur ad fylgja nokkud.

hverjum bergur nokkud, sem eigi er feigur, Fóstbrædra s. í Grønl. H. M. 2. bd. bls. 372.

hverjum er sárt til sinna Ljódabók J. Þorlákssonar 2. bd. bls. 197. Hverjum er sinn sár, P).

hverjum lætur sitt lag bezt.

hvern dregur í sína ætt, Parcevals s.

hvert mál er eptir því, sem þad er virt (= svo er hvert mál, sem þad er virt, Bodsrit).

hvert verk lofar sig sjálft.
hvílast býdur unnid verk.
hygginn er sá, sem lætur sér annars víti ad varnadi, Njála 13. k. bls. 23.
hyggin ræda heptir strid, Ritlíngarekstur.
hyggni greidir heidri veg.
hægra er ad finna ad, enn gjora betur.
hægra er ad tala tólf jokla, enn gánga einn.
hægra er ad virdast gódur, enn vera þad.
hægt er ad venjast ófridri ásjónu.
hætt er þeim vid falli, sem hátt hreykist.
hæversku er hyggins einkenni
hofnun ástar hatur kveikir.
hond (þ. e. þjófs) skal í hóst stytta, Fms. 5. bd. bls. 42. í visu.

## I.

Í fjórda sinni er fullreynt.
í saurugu keri spillist gódur drykkur.
í sæng skal sveingd þola (í hvílu er skást húngur ad þola, P).
ill er þeim einvera, sem yfir illu býr.
illa eldist sviplyndra vinátta.
illa gefst opt of-dinrækni barna, D.
illa gyllist gull med eyri, Ritlíngarekstur.
illa rekur illvilji annars erindi.
illa skartar heimskan heima, hálfu ver utanhúss.
–illa skartar skornugt lin, Ritlíngarekstur. (Ekki er skart ad skornugu lini, P).
illa veitist þad med óvilja er gjört.
illir kvida endurgjaldi.
illt er ad binda vináttu vid illa rædan.
illt er ad eiga eptirkaup hjá skuldseigum.
illt er ad ginna gamlan ref.
illt er ad halda til þess smámúnunum, ad madur týni stórum.
illt er ad hepta (þ. e. stemma stigu fyrir) heimfúsan klár.

illt er ad kenna afgomlum, Kitlingarekstur.
illt er ad ljá þad annar á.
illt er ad sturla grátid geð, Kitlingarekstur.
illt er ad veita þad ødrum, sem ófrjálst er.
illt er ad vera uppá adra kominn.
illt er betra enn ekki (= betra er illt, enn ekki þar, Bodsr).
illt er illan ad síða.
illt er ragan ad eggja í snarþri orustu, Krákumál 22 er.
illt er sofanda manni og sjúkum ad trúa.
illt er tvísættum ad trúa, D.
illt er vid dýran ad deila, D.
illt er vid hamingju ad etja.
illt er vísu von ad kaupa (úr vísu, P.), s. Hrólfs Gautreksf. 1. k. bls. 60. í F. N. s. 3. bd.
illt er þeim ad fara í skóg, er hrædist hvern fauskinn.
illt er þeim med boga, sem ekki kann upp ad toga (hvad skal þeim med boga, sem o. s. frv. Bodsrit).
illt hefst af illum.
illt hlýzt af illum, Grettis s. 36. k. bls. 113.
illt kaup er ad taka glæp vid miklu happi; sbr. þátt Þorst. Stángarhøggs.
illum gjørir (geymir, Bodsrit) ef ekki nýtur.
illum hvopti (hvolpi, P) mælir eingínn gott.
illur jafnan ills á von (illur á jafnan ills von, P).

## J.

Jafnan er hálfsøgd ságan ef einn segir frá, Grettis s. 48. k. bls. 121. (Hálfsøgd er saga, o. s. frv., P)
jafnan eru margir ad frændsemi, Islendínga s. (útg. 1829) 1. bd. bls. 145.
jafnan heyrist ei, sem er, Grettis s. 96. k. bls. 166.
jafnt er þá kinnhestur er góldinn kjaptshøggi, Stafrofskver P. Gudjónssonar.

## K.

Kalt skal vid kalid leggja.
kátt er þeim ei kennir sorg, Stafrofsk. P. Gudjónssonar.
koma má sínu fram, þó hægt fari af stad.
kornid fyllir (skal fylla, P.) mælirinn.
kveinka sjer flestir, þá komid er inn úr skinninu.
köld ráð koma frá kaldrifjudum.

## L.

Lagdur vegur er ljettfarnastur.
laglega fara litid má (opt má litid laglega fara, P).
lágtölud er tóm þýngja.
lánþingum er litla stund ad fagna (= ekki er lán leingur enn ljed er, P).
lastmáll og kjaftsmáll sitja opt á bekk saman.
lastmálugur verdur hverjum leidur.
laungum er hefnigjarnt litid vit.
laungum slímir latur.
leikarinn dansar fyrir vinningnum (varningnum, P).
leingi glíma likir tveir.
leingi má ágæda.
leingi má ljett upp taka.
leingi stydur hollur nágranni.
leingi má vont vefna.
leingi teygir kerling lopa.
leingi togast tveir eigingjarnir á.
ljett er ad taka loford stört fyrir litid bú, í óprentudu kvædi eptir sjera Hallgrím Pjetursson.
lifa atkvædi lýda, Hardar s. 6. kap. í vísu.
líka villast lærdir menn.
litid bagar og litid lagar (litid lagar litid bagar P).
litid (lifid, P. rángt) er litlu skapi raun.
litid er lúnga í lóuþræls únga, þó er enn minna mannvitid kvenna.
litid ertir (egnir) lundillan.

litid gagnar gaungumanni gøfug ætt (ødruvisi P).
litid geingur undan lodurmenninu.
litid hugnast litla fólkinu.
litid stoda ordin gód ef ekki er meira.
litid stodar latan, þó laungum skodi verk sitt.
litid stodar audur án yndis.
litid stodar þad, þó kýrin mjólki vel, ef hún fellir føtuna.
litilþæg eru litlu børnin.
litla hrid skín bjartur málmur í mòdugri hirzlu, Hirdløg 27. kap.
litt er sá heill, er í augun verkir, Fóstbrædrasaga á skinnbókarbroti.
litur gjøf til launa (= æ sjer gjøf til gjalda, P).
lýttur er sá, sem ekki fylgir landssidnum (sá er lýttur, o. s. frv. P).
læra (nema, og: þad nema, P) børn þad á bæ er titt.

## M.

Maklegur bródur er eingum ofgódur (forþjentur, o. s. frv., P).
man mýsla hvar mat sjer fann.
mangi (eingi) má vid forløgum brjótast, Vatnsdæla í handriti.
marga á sjer Mammon þræla.
margan hefur slasid fellt.
margan hefur limalángur lagad.
margan þad sækir, er minnst varir, Sólarljód, 8. er.
margar eru mannsæfirnar (mørg er mannsæfin), Gyllinisálmur sjera Þorgeirs Andressonar 1. er.
margir eru ljúfari ad loforduin, enn útlátum.
margir ómaklegir gjalda eins illsku.
margir verda vaskir í einángrinu, þótt litt sjeu vaskir þess á milli, Eyrbyggja s. 18. kap. bls. 60.
margs fer sá á mis, er á morgna sefur (margt hefur sá minna, er á morgna sefur, P).
margt ber málugum á góma.
margt er á ad minnast, þá málvinir finnast.

margt er betur átt, enn óſtad.
margt er glisid í mángarans búd (margt er fagurt í kaupmanns búdinni, P).
margt er likt med þeim, sem gódir þykjaſt, Grettis ſ. 45. kap. blſ. 119.
margt er þad, sem í þokunni býr (þad er svo margt, o. ſ. frv., P).
margt er þad, sem þorſina þjáir, Sigurdar kvida Hundíngsbana ønnur 10da er.
margt ſer odruvisi, enn áhorfiſt (enn ætlad er, P).
margt finna ſeppar í ſorphaugum.
margt geingur (fer, P) ver, enn varir, Háfamál, 40. er.
margt kann auga eitt ad greina, Snjársljód.
margt kemur upp þá hjúin deila.
margt má (kann, Bodsrit) heilan hindra.
margur á ord í annars fari.
margur berſt á, sem ekkert á.
margur bregſt med (hefur) djúpa und, þó dult fari.
margur er feigs vodinn.
margur er ills auki.
margur er ills ótti (margt óttaſt hinn ſeki, og samvizku illi, P).
margur er ſkáld þó hann yrki ekki.
margur geſſt upp á midri leid (margir eru þreyttir, o. ſ. frv., P).
margur girniſt margs, sem hann þarf þó ekki.
margur gjorir ei af því illt ad hann getur þad ekki (margan hindrar, og ſ. frv. P).
margur gjorir litid úr því, sem honum er ekki lagid.
margur gjorir rád fyrir (kvidir, Bodsrit) þeim degi, sem ekki kemur yſir hann.
margur gledſt vid vel kvedin ord (hver gledſt, o. ſ. frv. Bodsrit).
margur gyllir, þó grátt ſé undir.
margur hefur laung hlaup, en litid kaup.
margur hvatti exi ſína, en hoggur þó ekki.
margur kafnar undir nafni.

margur ljær holdi lausan taum, þó leynt fari (litið á beri).
margur rjettir við úr litlum vonum.
margur sigrast af mjúkri bæn.
margur skipast vel við góðan búning, Fms. 6. bd. bls. 208.
margur sparar sitt, en níðist á annara.
margur talar dánumannlega, en breytir sem bósi.
margur talar litla stund, og iðrast eptir leingi.
margur tók í mein sjer, en fekk vanþokk til launa.
margur tók við mútunni en missti frelsið (margur tók við gáfunni, o. s. frv, Bodsrit).
margur verður feiginn að nýta það seinna, sem hann áður kastaði.
margur verður svikinn í sæti, en síður á fæti.
markar svell í miðgóu.
maturinn er fyrir öllu (= matur er manns megin), Aur Grobbians ríma.
með ráðum verður rýmdur frá sjer bagi, D.
meðalhófið er marghæfast.
mein er þeim, sem í myrkur rata.
meira vinnur hygginn með ráðum, enn ákafa.
meira vinnur vit, enn strið.
mennt er betri, enn mikið sje.
mest bylur í tómri tunnu (í tómum ílátum bylur mest, P).
mest vilja mannleysingjar stakka, D.
miðvikudagur er einn um veður.
mikið er konúngsríkið, og mikil er konúngs gipta, saga Ans Bogsveigis í Fms. 2. bd. bls. 354 (mikið er konungs ríki P).
mikið er til ábatans (fyrir ábatann) unnið, Kvæði sjera St. í Vallanesi.
mikið kennir vaninn, Parcevals s.
miklu veldur fæðingin, meira uppfóstrið.
misjafnir eru blinds manns bitar, F.
misskipt er manna láni (aðrir: gæfu láni) = ekki er lánið allra.
mitt var það, en ekki þitt, kvað bósi, greip annars pening af gólfi.

mjúkt andsvar mýkir reidi.
módir dylur barnsins bresti (þar af þróast lestir, bæta sumir vid).
mýkist flest, sem margbeygt er (opt beygt verdur um sídir mjúkt, P).
mætur er fridleikur ef mannkostir fylgja.
mørg er mannsæfin.
mørgum gjørir mælgin (sin mælgi) skemd.
mørgum skýzt þó skir sje (skýzt þó skírir sjeu, Bodsrit).
mørgum þykir maturinn gódur, þó hann sniki ekki.

## N.

Námid vill til náttúrunnar snúa, D.
neyd kennir nýtni.
njóta skal fjarins medan kostur er, Fms. 6. bd. bls. 15.
nóg er til þá neitinn lofar.
nú er þad af, sem ádur var (sjá: af er þad, o. s frv).
nær ølid geingur inn (þegar vinid geingur inn, Bodsrit) geingur vitid út.
nærri er vodi ef illa vill til.

## O.

Odrjúgur verdur útborinn eyrir.
ofdrykkja er illur rádgjafi.
ofneytzla er eldur fjármuna, D.
oftæki (þ. e. oftak) hnekkir afli.
óhóf elur fjárplóg.
ókenndur varningur fyrrir margan fje (ókunnugur, o. s. frv. Bodsrit)
ónenning ber orbyrgd á baki, en álas fyrir brjósti.
ónenning er undirrót til klækja.
opt af neista bálid brann, Gyllinisálmur sjera Þorgeirs Andresarsonar.
opt aflagar illur vani góda náttúru.
opt bendir eft fyrir illum ásetningi.
opt blekkir ordslægur einfaldan.

opt breytir litið atvik laungu áformi.
opt brjótast með þeim barnórar, sem saman eiga að búa
opt drepa ill dæmi óstyrkva dygð.
opt dylst vizta undir vondri kápu.
opt er bidill (þjófur) seint á ferð, 2. Stellurima 13. er.
opt er bófinn óseilinn.
opt er dulur undir døkkum feldi.
opt er elskan amalynd.
opt er sen i føgru eingi.
opt er gáta lýgi næst, Ný Fjelagsrit 4. ár, bls. 113.
opt er góður gjafalitill.
opt er i þirdsølum óheill lýður.
opt er innan friður utan ljótur.
opt er i vondum skeiðum vænt sverð.
opt er lágur sess hægur (lágur sess er opt hægur, P).
opt er lygð i farandkonu (førukonu) ferð.
opt er løtum illt i fæti, þá eitthvað þarf að fara.
opt er málsnjall miðlúngi sannorður (oðruvisi P).
opt er mjór stofn mikillar gæfu (oðruvisi P).
opt er morgunhlátur aptans grátur.
opt er munaður ótta blandinn.
opt er ragn (illmæli, P.) i þræls reiði.
opt er refur i rauðum hárum (þ. e. opt eru rauðhærðir menn reflyndir). Skinnb. A. M. i 4ra bl. br.
opt er sá dómharður, sem dómsvald ei ber.
opt er sjálfum vjel verst, Stafrofskver P. Guðjónssonar.
opt er slinni slippifeingur. Slinninn er opt, og s. frv. og: opt er þrællinn bæði slisinn og slippifeingur, P.
opt er snauður vinur auðgum betri.
opt er snotur (vitur maður, P.) seinn til svars.
opt er sultur i sjálfræði.
opt er það gott, sem ekki er samlikt (opt kann það gott að vera, sem, o. s. frv. P).
opt er ørsnauð kona auðmanns prýði.
opt eru auðbúar auðnulitlir, Hyndluljóð hin yngri.

opt eru augu innra manns spegill.
opt eru gisin hin gømlu ker.
opt eru vaskar hendur undir vargsbelgi, Brynjólfur byst- up í athugagr. við Saxo.
opt fer bending undan heguing (straffi, P).
opt ferst illur með illum.
opt fær ill byrjun góðan enda, kv. Sigurðar Peturssonar blf. 174.
opt fær sá knjesig, sem knárri er (opt fær sá sterkari knjesig fyrir heim veikari, P).
opt fær sá um síðir gott undanhald, sem leingi á erfitt á móti, Skipreikasálmur sjera Þorgeirs Andrésarsonar, 59da er.
opt gefur óverðum happ.
opt geingur auður fyrir mannkostum.
opt gjorir kaupskapur vina skarð í vináttuna (opt gjorir vinanna kaupskapur, o. s. frv., P).
opt gráta konur það á annari stundu, er þær eggja á annari; sbr. Þátt Þorst. Stángarhøggs.
opt grær gott í grennd við illt.
opt hafa herrar ódygga (misjafna, P.) þjóna.
opt hafa hundar það, er hafna sessunautar.
opt hafa losleg dæmi litla fylgð.
opt hlotnast hundi, það hjúum er ætlað.
opt hlær heimskur að hugsun sinni.
opt ilmar eitrud rót (opt er eitraður ávoxtur ilmandi, P).
opt kemst sá í krappan dans, sem ekki leitar fyrir sjer.
opt kemur lítil gjof sjer vel, Odysseifs dr. 6ta bók blf. 25.
opt kemur ofstopa hnekking.
opt kemur óvorum (aðrir: óvæntum) happ.
opt kemur sníkinn þá etið er.
opt liggur dygð í dupti, þá losturinn hreykir hátt.
opt ljúgast lausingja heit.
opt lofar læknirinn heilsunni, hún er þó ekki í hans valdi.
opt má að liði verða, þó lítill sje.

opt má af máli þekkja manninn, hver helzt hann er (opt má af máli kenna hver madurinn er, P).
opt mælir sá sjálfum sjer óvirding, sem ødrum nidrar.
opt mætir prettur pretti.
opt óttast ragur ófyrirsynju.
opt rekast ríkismanna reigingar í rirdar hnipur.
opt rídur sá seint úr hladi, er snemma bindur sporana, kvædi sjera Steffáns í Vallanesi bls. 35. Sá rídur seint úr hladi, P.
opt rædur veldi meira, enn rjettindi.
opt sigrar lángt stríd stráksíund.
opt skammast afspreingi ættar sinnar.
opt sparir leidum þats hefur ljúfum hugad, Háfamál 40ta er.
opt spillir litil stund laungu ersidi.
opt sprettur løstur af losi.
opt steypir þad morgum, þá stórir tveir deila (opt gyldir þad margra velferd, þegar, o. s. frv. P).
opt sýtir sá æst er aldreigi nistir, Krákumál, F. M. s. 1ta bd. bls. 308.
opt tæla hygginn tviræd ord.
opt vada óforsjálir í hástann.
opt vantar þann viljann, sem efnin hefur nóg (opt kann ad vanta, o. s. frv. P).
opt vegnar vondum bezt.
opt verda eptirlætisborn ættarskomm.
opt verdur af litlu efni laung deila.
opt verdur af litlum upptokum mikill afspreingur.
opt verdur mønnum ein stund at seinum, Harmsól, 41ta er.
opt verdur offsnemm rádagjord ad útideyfu.
opt verdur óverdum tillt í tignarsæti.
opt verdur sárhogg sígandi hefnd.
opt verdur (opt fer, Bödsrit) sá villur, er geta skal, Fóstbr. s. í Grønl. H. M. 2 bd. bls. 372.
opt verdur stritt vald endamjótt.
opt verdur vesæll ad manni.

opt vitnast, sem ei varast.
optast er túngutrúr tídindafár.
optast eru lastyrdi login.
ósamþeldi er eymda módir.
óspart (ósárt) er stykki af annars stykki.
óstodugt er úngra ráð.
ósvinnum koma eptirrádin (illa i þag, bæta sumir vid). Eptir á koma ósvinnum, o. s. frv. P.
ótimaverk rydur odru sjer úr rúmi.
óttinn agar illan.
óttinn kvelur ágjarnan.
óttinn tvofaldar alla þættu.
óvirt er audfeingi, en ofvirt torgæti.
óþakklæti er illa goldinn eyrir.
óþolinmædi gjorir vont enn verra.

## P.

Prettur og púki bjuggu í einum búki, Stafrofskver P. Gudjónssonar.

## R.

Ráð er ad taka þid minna, ef eigi fær þid meira, Fms. 6ta bd. bls. 148.
rángfeingni gjorir rird i búi (þad rángfeingna, o. s. frv. P).
ratar rógur þó rokkvid sje.
raun er raupi visari.
reidinn madur reisir gegn sjer marga þrætu, D.
reynslan er fyrir heilum þleif.
riklundadur og rádgjarn verda sjaldan á eitt sáttir.
rikur fær þar rúm, sem fátækum er frávisad (þinn riki, o. s. frv. P).
rógstúngur reka frid úr húsi (odruvisi P).

## S.

Sá á ad byrja, sem bezt kvedur, Markólfssaga.

sá á ósigurinn vísan, sem horfar undan hættunni.
sá á hef (lykt, P.), sem fyrst finnur.
sá bætir ekki brók annars, sem berlæradur er sjálfur, (sá kann ekki ad bæta br., o. s, frv. Bodsrit).
sá er dreingur, sem vid geingur, (hað er dreingur, sem vid geingur, P).
sá er ekki líkur til bol ad bera, sem ekki má bregda, s. Hrólfs Gautrekss. í F. N. s. 3ja bd. bls. 60, 1 k.
sá er ekki túnguspar, sem kyrnir um kálfsrófuna.
sá er eingi gikkur, sem ekki gjørir sig hað (hað er eingi gikkur nema hann gjori sig hað, P).
sá fer ekki sekur af hinginu, sem sjálfur sig dæmir (sem sjálfur á ad dæma, P).
sá fær bezta hlutskiptid, sem heidurinn ber úr bitum.
sá fær opt naumt kaup, sem nóg hefur hlaup (sá fær naumt kaup, sem neydist til ad hlaupa, P).
sá hefur allt sitt, sem eingum midlar.
sá hefur annan undir, er á rædur, s. Hr. Gautrekss. í F. N. s. 3ja bd. bls. 64.
sá hefur ekki, sem ei hættir.
sá hefur sitt mál, sem hrástur er.
sá hlýtur eldinn skara, sem kalda vini vill verma (adrir: marga vini vill verma).
sá kaupir flestan óharfann, sem fæst hefur fyrir ad gefa (adrir missa).
sá kemur nógu snemma, sem heingdur verdur vid ljós.
sá lifir óhultastur, sem litils óskar.
sá nýtir flest, sem af fæstu hefur ad taka.
sá nýtur nokkurs sauda sinna, sem ullarinnar nýtur.
sá sem kastar skarni á adra, kámar sjálfan sig.
sá skal hýdingu valda, sem heimskastur er á hingi, Jón Olafsson de cogn. spirituali.
sá veit, er reynir, en óreyndur tortryggir (sá veit gjørst, er reynir, P.) s. Magnúsar Eyjajarls bls. 368.

sá veit gjørst, sem reynir, Grettisf. 42. k. blf. 118. sá veit fleira, sem fleira prófar, P).
sá verdur eingi barinn, sem húsbóndans skipan gjørir.
sá ætlar adra góda, sem sjálfur er gódur; sbr. kv. sjera Steffáns í Vallanesi blf. 22.
sameign gjørir tídum sundurþykki
samt er strákur, þó stýri aud.
samt þýtur (sama þýtur, P.) í þeim skjá, sem gatid er á.
sannast hvad á sínum tíma.
sannleikurinn (sannindin eru) er sagna beztur.
sár eru synda gjøld.
sárt er ad missa þess, sem mædilega er aflad.
sein ídran er sjaldan góð.
seinna koma sumir dagar, en koma þó.
seint er ad kenna fóli visdóm.
seint er ad kenna til, þá komid er ad hjartanu.
seint er ad spara, þá bylur á botni.
seint er mann ad reyna, Ljósvetníngas. blf. 46. Leingi skal manninn marka (reyna), P.
seint er um lángan veg sønn tídindi ad spyrja, Gylfa ginning, Rasks útg. blf. 45.
seint fyllist skaskarls skreppan.
seint gleymist þad, sem leingi og vel er lært.
seint koma latir menn til verka sinna.
seint koma sælir, og koma þó.
seint reidist latur rúmi (seint mun latur rúmi reidast., P).
seint vagar kálffull kýr.
sem húsbóndinn er, svo eru hjúin.
sier hvad sier aumra (sjerhvad, P. meiníngarlaust).
sjerhvad hefur sína tíd, kv. sjera Hallgr. Peturssonar blf. 233. „um kristinns manns athæsi".
sjerhver þekkist af sínum verkum.
sjerlikir bezt saman búa, Heimsspekíngaskóli.
sjaldan brestur óþrifna konu áhald.
sjaldan deyja búrkonur (eda: búkonur) fyrir búrdyrum.

sjaldan er bid til batnadar.
sjaldan er gódur skyndiþvottur, (skyndiþvottur er, v. s. frv. P).
sjaldan er ísing efst á snjó.
sjaldan er lángvinnur laugardags þerrir.
sjaldan er vindur í ólundarkindum, eda óljettum konum.
sjaldan leyna augu, ef ann kona manni (augun ei leyna, v. s. frv. P.) adrir: ekki leyna augun, ef ann kona manni.
sjaldan skilst ad stráknr og hnakki (líklega fiskhnakki).
sjaldan vantar veganda vopn (sjaldan brestur v. v. P).
sjaldan þrýtur þrasa (þ. e. krumma) kjaptamátt, D.
sjálfbodid er gódum gesti.
sjálfrátt hjú sveltir bóndans bú.
sjálfum sjer trúir hver bezt, Ársrit presta 1. árg. bls. 34.
sjálfur veit bezt hvar ad honum kreppir skórinn.
sinkum er ekki um svánga menn.
sitt er hvad ad hafa, fá og halda.
sitt er hvad ramleikur og rádkænska.
sitt er hvort gæfa og gjörfugleiki, Grettis s. 36. k. bls. 113.
sitt gedjast hverjum bezt.
sitt lag lætur hverjum bezt.
skamminnug er óþokkans þörf.
skammsýni kannar skøt, D, bls. 430.
skammur er blæu brimirn.
skylt er hendi af hofdi ad bera.
skomm (stutt, P) er skipmanna reidi.
slægur etur slægs mat.
smáþæg eru börnin.
snemma gýtur gódur vetur kálfi.
sorphaugar eru seppum kærir.
sparast tala spakir menn.
sparneytni og heilsa spyrdast vel.
spónasmida börn (spónasmidir, P) eiga opt vesta spæni.
spurn fræddir spakan.
stird eru gomlum stodubeinin.
sum vinátta er svikum næst.

sundurþykki er gæfugrand.
sundurþykkir sína gæfu lesta, D.
súrt (sevrt) er lof í sjálfs munni.
svángur er sá, 'er eptir jetur.
sveingd kennir vargi ad sækja bráð.
svinnur er sá, er sig kann, Hrafnkells s. 3. kap.
svo er frágángurinn, sem fingurnir, er unnu.
svo er hver, sem hann vill, Fóstbr. s. í Grønl. H. M. 2. bd. bls. 378.
svo er hver, sem heitir, Fóstbr. s. á skinnbókarbr.
svo er hver virtur, sem hann er girtur.
svo ferst hvad, sem feingid er.
svo geingur hverjum, sem hann er gódur til.
svo hjálpast býr, sem birnir.
svo leingi lærir, sem lifir.
svo lýtir heimskan minnst, ad hún hafi sig sem minnst frammi.
svo má einn ljúga, ad níu hángi.
svo má hvert ker fylla, ad út af flói (hvert ker kann ad verda svo fullt, ad, o. s. frv., P).
svo minkar rausn, sem munir þverra.
svo missjest oldrudum, sem úngum.
svo sjá augun bezt, ad hendurnar haldi á.
svo skartar hárid bezt, ad höfdinu fylgi eitthvad meira.
synd kemur med hlátri, en fer med gráti.
sýndu manninn, en ekki matkerid.
syndum vjer fiskarnir, segja hornsílin.
sæt er synda ást, Lyflings þ.
sætt er allt, sem sjálfum líkar.

# T.

Tíkur tvær um eitt bein, og píkur tvær um einn svein, verda sjaldan samlyndar í þeirri grein (hundar tveir, o. s. frv., P).
til frægdar skal konúng hafa meira enn til lánglífis, Fms. 7, 73.

til hófs er bezt að búa, s. Ásmundar kappabana bls. 465, Rafns útg.
til lítils er að bera vatn á klettinn.
torgætir eru tryggir vinir, Kórmaks s. í vísu.
traud verður hönd af venju, Harms. 42. er.
trautt á tirrinn trúan þjón.
tveir eru í hættu hverri, Kjalnesinga s. 10. kap. aðrir: tvent er í hættu hverri
tvenn (tvö, Boðsrit) eru hófin, og ratar heimskur hvorugt.
tvennar eru tíðir (tvennir eru tímar), aðrir bæta við: þó misjafnir sjeu.

## U.

Ulfi kennir illur hirðir.
úngbörn og gamalmenni geyma sjaldan leingi garð (þ. e. kirkjugarð).
Uppgjöf er einhver bezta hefnd.
útlenzk túnga hefur í för með sjer útlenda siði.
útlenskt óhóf bítur vest.

## V.

Valt er firða fjör.
valt er skjól í vandræðum, D.
valt er vífslund að trúa, D.
vandaminna er að vera í heimahúsum, enn hirðsölum.
vandi er hófs að gæta í velgeingninni.
vandsjeð er hvað við tekur, ef vísu sleppir.
vandsjen er hverjum annars sæla, D.
vandsjenir eru margir, Grettis s. 70. kap. bls. 142.
vandt er að sjá hvar sæls manns efni situr.
vandt er úr vöndu að ráða Hrafnkells s. Freysgoða bls. 33; sjá Boðsrit.
vandt er velboðnu að neita; sjá P. bls. 345.
vandt er tveimur herrum að þjóna, og vera báðum trúr. Aðrir: það er ekki gott að þjóna tveimur herrum.

varat (þ. e. ei var) af voru sleikt, af hvoru, Þorf. s. Karlsefnis i Grønl. H. M.

veit hygginn hvad vid sitt hæsi er, D.

veittu láni verdur hver ad bita, Eingildiktur.

vel er þess gætt, sem gætinn geymir.

veldur ei (ekki veldur, P) sá varir (þó ver fari, bæta sumir vid), Ritlíngarekstur.

venja má villudýr, en ei vonda konu (margur temur villudýr, en ei vonda konu, P).

venst aumur vosi.

verdur hver þad verda skal (rángt i P. bls. 349).

verdur þad er varir og ekki varir, Grettis s. 16. k. bls. 91.

verkin lýsa hverjum bezt, 4. Stellur. 47. er.

verri er skømm, enn skadi.

vertu sem flestir, þá vita þig fæstir.

vid heilt er bezt ad búa, Tóukvædi.

vida fær vel kynntur náttstad.

vif er vers yndi, Ljódabók Jóns Þorlákssonar.

viljann er ad virda, þó vanti máttinn.

vin skal til vinar drekka, Sturl. 10. Þ. bls. 17.

vinar skal i þørf neyta, Íslendínga s. 1. bd. bls. 271; sbr. Fms. 8. bd. bls. 399. Í þorf skal vinar neyta, P.

vindur er tornæmastur (þ. e. illt er' ad ná honum), Lýsíngs Þ.

vinna er góð vid fátækt.

vinna er lasta vørn.

vinna gjørir væran svefn.

vinna i æsku veitir hvild i elli.

vinur er sá i vanda reynist (adrir: i raun reynist). Þad er vinur, sem vel i vanda reynist, Bodsrit).

vinur er sá (sá er vinur, P) til vamma segir.

vinur þegar þú vilt mjer nokkud, en þræll þegar þú þarft min ekki.

vinnur mær vanda sinn.

visast er þad i hendi hefur.

vitfyrring og løsti eru ofdrykkju born.
volar hún krepja ef kylur i nogl.
von er libenda lyf.
vond samvizka er vesta kvol
vondt er vinalaust land.
vondt hjú vanar bóndans bú.
vondt hlýzt af voldugra deilu.
vondur er hálfsmánadar strákurinn, en verri viku stelpan.
vosi venst vesæll madur, Arsrit presta, 1. árg. bls. 48 = venst aumur vosi.
volt eru einatt voldin há, Gylliniljód síera Þorgeirs Andresarsonar 20. er.

## Y.

Yfirbætur liggja til alls; adrir: bót liggur til alls.
ýmsir verda undan ad láta.

## Þ.

Þá er hart í ári, þegar einn hrafninn hoggur annars augu út.
þá er illa keypt, ef annarhver hreppir skada.
þá er þogn þarfleg, er munnurinn vill mæla illt (ødruvísi, P).
þá eru vetrar horkur úti, þegar spóinn vellir graut, Fjel. R. 14. bd. bls. 155, „um mannfækkun af hallæri."
þad á ekki saman tvofaldur (slægur, Bodsrit), og einfaldur.
þad bætir á skømmina ad bíta af henni høfudið.
þad einum er gjort til hegningar, er odrum gjort til varúdar.
þad er ekki (sá er eínginn, P) óláns madur, sem eínginn hefur ólán af.
þad er ekki bókin, sem lærdan gjorir, heldur bókidnin.
þad er ekki gott ad sleppa sledanum framfyrir eykina (þad er illt, o. s. frv., P).
þad er ekki gott (illt er, P) ad vera bædi ger og matvandur.
þad er ekki gott ad þjóna tveimur herrum.

þad er ekki þeiglum þent, ad eiga vid þann þessa (sídari þlutanum sleppir P)

þad er gódra sidur, ad leggja saudinn nidur.

þad er þverjum lángminnugast, sem þann lærir af skada sínum.

þad er þverjum tamast, sem i æskunni er numid. Grettis s. 83. kap. bls. 150.

þad er þvers baldur (þ. e. mæda), sem þann ber.

þad er litid sem þundstúngan finnur ekki.

þad er litid þarfa tal ad gifra um geitar þárid.

þad er litill mannskapur ad leggjast á litilmagnann.

þad er mikid mein ad þafa lángan þeim (þ. e. illt er óyndi; lángan = laungun), skb. A. M. 4. bl. br. 167.

þad er ójafn leikur, þá stormur glimir vid sátu (strá) D.

þad er seint ad segja amen, þegar allir djáknarnir eru þagnadir.

þad er sjaldan gott skáld, sem gamalt kvedur.

þad er vesllum fróun ad vita annan i kvölinni med sjer.

þad er þjófsins verja ad ljúga og sverja.

þad finnst i laup, sem illa er táid.

þad kemur aldrei ofsnemma, sem eptir er þráð.

þad man leingi, sem fyrst lærir.

þad skal á þrjót (þjót, P) þorna, sem á þræl voknar. Adrir: þad skal i þey þorna, sem á þjó voknar.

þad skal leysa, sem lidid er, þ. Hem. Aslákss. 8. kap.

þad skal úngur læra, sem gamlan má næra (sem gamall vill þafa, P).

þad skyldi úngur fremja, er gomlum ber ad þalda; sbr. Harmss. 42. er.

þad svikur (þrettar, P) margan ad kaupa óséd.

Það verður að segja svo hverja sögu, sem hún geingur.

Það verður hver að bera, sem ekki kann að breytast, kv. síera St. í Vallanesi 139. bls. = það sem verður að vera, viljugur skal hver bera, P)

Það verður hver, sem hann er ætlaður til.

Það verður morgu sinni, er minnst varir, Krákumál í F. ꝛ. s. 1. bd. bls. 282; sbr. margan hendir það, er minnst varir, Orkn. s. bls. 82, og P).

Það verður vondt um síðir, sem vesnanda fer.

Það vinnst opt með blíðu, sem ekki fæst með stríðu.

Það ýlfrar allt, sem af úlfi er komið.

Þaðan er jafnan víkings von, sem víkingurinn býr, kv. síera St. í Vallanesi bls. 148.

Þagmælska er þarfleg eign.

Þángað fýsir elskugann, sem unnustan er.

Þangað leitar ástin, sem auðurinn er fyrir.

Þángað sækir klárinn mest (þángað er klárinn fúsastur, P), sem hann er kvaldastur, Örvarodds s. í F. ꝛ. s. 2. bd. bls. 252.

Þann er gott að fræða, sem sjálfur vill læra.

Þann er hægt að verja, sem einginn vill berja.

Þann má ei kefja, sem guð vill hefja, þ. Hemings Asláks-sonar, 7. kap. Þann er ei hægt að kefja, sem kristur vill hefja, P)

Þar er ekki von á góðu, sem tvær túngur eru í einu höfði.

Þar er gott að koma, sem öll hjú fagna.

Þar er lítið til vits að taka, sem konur eru, þ. Þorsteins Stángarhöggs.

Þar er margt að varast, sem margt er um.

þar er mjer úlfs von, er ek eyrun sjek, Fafnismál 35. er. og þakan í Volsúnga s., í F. N. s. 1. bd. bls. 164.
þar er sjaldan þurt, sem þursarnir sitja.
þar fær óhamingja inni, sem ósamheldni er húsráðandi.
þar gætir meir missirsins, sem minna er fyrir.
þar klappar margur á, sem hann vill eitthvad út fá.
þar sem kotturinn er hvitur, þángad á skinnarinn eriudi.
þar sem kotturinn kemur inn hofdinu, þar kemst hann allur.
þegar ein báran ris er onnur vis = aldrei er ein bára stok.
þegar slisid á til ad vilja er hægt ad fótbrotna á sljettum vegi.
þeigir þegar þjósanna er getid.
þeim lyndir vest, sem likastir eru.
þeim verdur sjaldan gott til granna, sem glósa mikid af sjálfs sins frægdum, Grobbiansr.
þeim þykir minkun ad læra, sem minkun þykir ad spyrja.
þeir láta mest yfir sjer, sem minnstir eru mennirnir.
þess er (verdur, P) getid, sem gjort er.
þjokkva skal hræsinn vid med hrisi, Fms. 6. bd. bls. 39 = þjetta skal hásan vid med hrisi.
þrisvar var allt reynt fordum, Grettis. s. 96. kap. bls. 160. (sbr. Sturl. 9. þátt bls. 253).
þúng verda gamalla manna soll, þ. Þorst. Bæjarmagns (P undir: þúng er eptirreidin) adrir: stird verda, o. s. frv.
þúngur er þeigjandi ródur; sjá P) bls. 413.
þunnt er þad blód, sem ekki er þykkra, enn vatn.
þvi meira sem eptir barninu er látid, þvi kenjóttara verdur þad.
þvi skal barni bjóda, sem betur tekur vid.

þvi skal úngur venjast, sem gamall skal fremja.
þykkt er þad blód, sem ekki rennur til skyldunnar.
þogn er heimskum hollust (bezt, P. adrir: hent), Ritlíngarekstur.

## Æ.

Æ kemur vit med vetri.
æ sjer til gyldis gjöf, Hávamál 148. er. (= æ sjer gjöf til gjalda, P).
æsir óhegnt dæmi.
ætid dregur nokkud til þess, sem verda vill.
ætid hefur idjumadurinn nóg ad vinna.

## Ö.

Öfund fylgir ordstír gódum.
öl er alda rógur, Hávamál.
ölfaung fordast fátæks gaung, Stafrofskver P. Gudjónssonar.
öll eru verk til einhvers gjörd, 3. Grobbiansrima.
öll sel birta upp um sídir.
öll velgeingni eitthvad hefur til meina, D.
öllum er batinn bodinn.
öllum er sjófáng sameiginlegt (allir eiga sjófaung saman, P).
öllum kemur elli á kne; sbr. Gylfaginníng 47.
örbyrgd kennir illum klæki.
örlátur audlaus er sem kappi vopnlaus.
örverpi er jafnan i ætt hverri.

## Prentvillur

i hinum fyrra viðbæti íslenzkra málshátta, 1843.

---

| | | | |
|---|---|---|---|
| Bls. 21. | línu 31, | viðs | fyrir vigs. |
| — 22. | — 12, | bykli | — byrði. |
| — 31. | — 1, | nudir | — undir. |
| — 33. | — 5, | kvøl | — vøl. |
| — 37. | — 24, | mepu | — megu. |
| — 41. | — 17, | leikur | — laukur. |
| — 52. | — 28, | heima-kvinnum . . . . . . | — heimahvinnum. |

Málsháttur inn í Njólu: myrk er ófarin gata, er líklega rjettari enn það, sem stendur í hinum fyrra viðbæti málsháttanna bls. 39, og tekið er úr sögu Jóns biskups helga: ókunnug er myrk gata; vandrøtuð verður blindum ókunnug gata hefur P. Fyrir það sem stendur á 12. bls. í sama viðbæti, og tekið er úr sögu Páls biskups: betri er sígandi arður enn snúandi, veit jeg ekki nema rjettara væri: betri er sígandi arður enn svífandi, nema ef snúandi getur verið hlutarheiti og merkt fljótur ábati.

